Stafrofs-kver.

utg. Viðeyar klaustri. 1824.

——— 1827

——— 1832

——— 1835

og ——— 1843.

# Stutt
# Stafrofs Qver,
ásamt
## Lúthers
# Litlu Frædum
med
## Bordsálmum
og
## Bænum.

---

Videyar Klaustri, 1832.
Prentad á Forlag Drs. M. Stephensens
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

Blíd a Barn! ad gád u,
Bók staf in a, án taf ar,
Grant ad mun a, sú ment in
Minn ir þig á ad finn a
Øll ad qvæd i, án vill u,
And ar taks teikn hvar stand a,
Gløggt skalt' og gjørl a vakt a,
Góð tem þér lestr a hljóð in.

Þett a í þánk a látt u
Þér, Barn! jafn an ver a,
Lest ur þinn þá med list um,
Lýð ir heyr a um sið ir.
Ott a Guds æ þér sett u
Ad æf a, svo var i gæf an;
All ir þá hjart a' af øll u
Arn a góds slík u Barn i.

## Stafrofið.

Aa, Bb, Cc, Dd, Ee,
Aa, Bb, Cc, Dd, Ee,
Ff, Gg, Hh, Iij, Kk,
Ff, Gg, Hh, IiJj, Kk,
Ll, Mm, Nn, Oo, Pp,
Ll, Mm, Nn, Oo, Pp,
Qq, Rr, Sſß, Tt, Uu,
Qq, Rr, Sſs, Tt, Uu,
Vv, Ww, Xx, Yy, Zz,
Vv, Ww, Xx, Yy, Zz,
Þþ, Ææ, Öö.
Ææ œ.

Af þessum kallast hljóð- eda radd-ar-stafir: a, e, i, o, u, y, æ, ø.

Tvefaldir hljóðstafir: á, é (sem lesist je), í, ó, ú, ý, og er vid þá alla herdt á hljóðinu; líka er og: ei, ey, au.

Samhljóðendur: b, c, d, f, g, h, j, k, l, m, n, p, q, r, s, s, t, v, w, x, z, þ, verda þeir ecki nefndir med einum bókstaf, eins og hljóðstafirnir, heldur því ad eins, ad hljóðstaf sé vid þá bætt, og heita því Samhljóðendur.

---

Stafrofs-rødin í vísum.

A, B, C, D, E, F, G,
Eptir kémur H, I, K,
L, M, N, O, einnig P,
Ætla' eg Q. þar standi hjá.

R, S, T, U, (V) eru þar næst,
X, Y, Z, Þ, Æ, Ø,
Allt Stafrofid er svo læst,
I erindin þessi lítil tvø.

# Ad-qvædin.

| | |
|---|---|
| Ab eb ib ob ub | Ba be bi bo bu |
| Ac ec ic oc uc | Ca ce ci co cu |
| Ad ed id od ud | Da de di do du |
| Af ef if of uf | Fa fe fi fo fu |
| Ag eg ig og ug | Ga ge gi go gu |
| Ah eh ih oh uh | Ha he hi ho hu |
| Ak ek ik ok uk | Ka ke ki ko ku |
| Al el il ol ul | La le li lo lu |
| Am em im om um | Ma me mi mo mu |
| An en in on un | Na ne ni no nu |
| Ap ep ip op up | Pa pe pi po pu |
| Ar er ir or ur | Ra re ri ro ru |
| As es is os us | Sa ſe ſi ſo ſu |
| At et it ot ut | Ta te ti to tu |
| Ax ex ix ox ux | Xa xe xi xo xu |
| Ay ey iy oy uy | Ya ye yi yo yu. |

## Rómversk- og Siffru-tala.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I | II | III | IV | V | VI | VII | VIII |
| 1 | 2 | 3 | 4 | 5 | 6 | 7 | 8 |
| einn | tveir | þrír | fjórir | fimm | sex | sjø | átta |

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| IX | X | XI | XII | XIII | XIV | XV |
| 9 | 10 | 11 | 12 | 13 | 14 | 15 |
| níu | tíu | ellefu | tólf | þrettán | fjórtán | fimtán |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| XVI | XVII | XVIII | XIX | XX |
| 16 | 17 | 18 | 19 | 20 |
| sextán | seytján | átján | nítján | tuttugu |
| XXI | XXX | XL | L | LX |
| 21 | 30 | 40 | 50 | 60 |
| tutt. o. einn | þrjátíu | fjørutíu | fimmtíu | sextíu |
| LXX | LXXX | XC | C | CC |
| 70 | 80 | 90 | 100 | 200 |
| sjøtíu | áttatíu | níutíu | hundrað | tvø hundr. |

| | | | |
|---|---|---|---|
| CCC | CCCC | (CD) | D |
| 300 | 400 | — | 500 |
| þrjú hundr. | fjøgur | hundr. | fimm hundr. |
| DC | DCC | DCCC | CM |
| 600 | 700 | 800 | 900 |
| sex hundr. | sjø hundr. | átta hundr. | níu hundr. |

| | |
|---|---|
| M | MDCCCXXXII. |
| 1000 | 1832. |
| þúsund | eitt þúsund áttahundr. þrjátíu. o. tveir. |

Merk: Komi smærri römversk tala eptir stærri, eykur það eins mikið merkíngu stærri tölunnar og sú minni gyldir, en gángi minni tala undan stærri, minkar hún allt eins þá stærri, sem hér sjest á tölunum. Siffru-tölu merkínguna, eður hvers stafs í henni, þá fleiri koma saman, sýnir röðin, talin frá hægri til vinstri handar; þar á minnir þessi Vísa:

Sig mest merkir hinn fyrsti,
Mann tíu qvað annar,
Hundrað þýðir hinn þriðji,
Þúsund fjórði, vel grunda,
Tíu þúsund tel fimta,
Tel hundrað þúsund sjötta,
Sjöunda Klerkar kénndu,
Að kalla þúsund þúsunda.

## Brota-tala.

| | |
|---|---|
| $\frac{1}{2}$ | lesist: hálfur. |
| $\frac{1}{3}$ | — einn þriðji partur. |
| $\frac{3}{5}$ | — þrír fimtu partar. |
| $\frac{5}{8}$ | — fimm áttundu partar. |
| $\frac{9}{15}$ | — níu fimtándu partar. |
| $\frac{14}{100}$ | — fjórtán hundruðustu partar. |
| $\frac{25}{1000}$ | — tuttugu og fimm þúsundustu p. |

## Æfingar dæmi.

Hvernig skal lesa: Annó MCCDXLIIX, sem er í Siffru tølu 1348?
Svar: Þrettán hundruð fjørutíu og átta.
Hvað eru 17,609?
Svar: seytján þúsund sex hundruð og níu.
Hvernig skal lesa í Lærdóms-bókinni bls. 17, þar sem stendur: 2 Mós. b. 20, 5. 6.?
Sv.: annarar Mósis-bókar tuttugasta kapítula, versinu fimmta og sjøtta.
En bls. 69, þar sem stendur: 2 Tím. 3, 15 - 17.?
Sv.: síðara Páls Pistils til Tímótheusar þriðja kap., versunum 15da til 17da.

## Lestrar reglur.

Í framandi túngna nøfnum og orðum lesist Au, sem á, t. d: Author, Augustus, Paulus, Saul, lesist: Authór, Augústus, Pálus, Sál, en í íslendsku sem øj.

C fyrir framan e, i, æ, y, lesist sem s, t. d: Cedrus, Ceremonia, Process, Cirkill, Cicero, Cæsar, Cyprianus, Cyrus, Scipio, Scena, Marci, Lucæ; les: Sedrus, Seremonia, Prósess, sirkill, Siseró, Sesar, Sypríanus, Sena, Marsi, Lúse, og s. frv. Annarstaðar lesist c sem k, þar uppá hljóðar svo vísan:

E fyri framan ó, ú, á,
Eins hljóðar og væri k,
En fyri framan e, æ, í,
Sem e s s i skaltú qveða' að því.

Ph lesist sem F, t. d.: Philippus, Pharao, Phanuel, les: Filippus, Faraó, Fanúel; í miðju orði er ph optar lesið sem ff, t. d.: Sophía, Stephán, les Soffía, Steffán; en Joseph, er lesin, sem Jósef.

T fyri framan i og annann hlóðstaf til lesist sem s, t. d.: Martius, Lectia, Pontius, Action, Caution, Citatia, Visitatia, les: Marsíus, Leksía, Ponsíus, Aksión, Cátsión, Sítatsía, Vísitatsía.

X lesist sem Ks, t. d.: Xerxes, Xantippe, les: Kserkses, Ksantippe.

Z lesist í upphafi sem S, t. d.: Zion, les Síon; í miðju sem ds eða ss, t. d.: Nazareth, les Nadsareth; þezu l. þessu; í enda opt sem st, endaz les endast.

Æ æ (í Látínu letri og manna nöfnum) lesist sem E, t. d.: Æneas, Irenæus, les Eneas, Ireneus; en Oe œ lesist sem Ø, t. d.: Oeconomus, Fœbus, les Økónómus, Føbus.

## Helztu adgreiníngar-merki.

, Comma í rædu, gjørir hennar minnstann adskilnad í smærri samanhángandi talsháttu, en lesa skal svo, ad adgreiníng verdi í rómi og lestri vid hvert, edur og anda vid þau, en ecki þar á milli.

; Semicolon gjørir stærri adgreiníngu rædunnar enn Comma, og minni enn Púnktur, og skal anda vid hvert eitt.

: Colon gengur á undan meiníngu edur rædu-lagi, sem vikid er á ad eptirfylgi, og skal anda þar vid, t. d.: Gudspjallid hljódar, sem fylgir:

. púnktur, adgreinir meiníngar og klausur, og skal fortakslaust anda vid sérhvern.

? Qvæstio (spurníngar-teikn) setst aptan vid hverja þá meiníngu í rædunni, sem inniheldur spurníngu, skal þar eptir laga róminn og anda vid þad teikn, t. d.: ertú gamall? litli piltur! kanntú nockud ad lesa? dregur þú ecki seyminn?

! Exclamatio (hróp-teikn) brúkast vid ákallanir og þá menn dást ad, furda sig yfir, qveina yfir einhverju, t. d.: heyrid þid, børn; en hvad fallega er lesid núna! ó! ad eg kynni þad eins! æ! þar vantar mikid til! Vid hvert þvílikt teikn á í

lestri ad staldra nockud edur anda, og laga róminn eptir efninu.

( ) Parenthesis er sett utan um ord eda meiníngu, sem skotid er inní adra til adgreiníngar, og á eptir þeim teiknum ad adgreina lesturinn; t. d.: eg skal (til ad færa sønnun á mál mitt) segja þér søgu: þar er því innsirklada skotid inní hoff-meiníngu. eg skal segja þér søgu.

- Hyphen (samtengíngar-merki) hvar ord skiptast í líuum, eda eru samsett, t. d.: fram-vegis.

' Apostrophus setst opt, einkum í skáldskap, sem teikn, ad hljódstafur sé úrfelldur eda egi úr ad fellast í saung, svo fegra sé hljód, eda lángar hendíngar falli betur í lagid, t. d.: um þad Pílatus sinnt' ei par, hvar í er undanfellt í s i n n t i; hvad ádur heyrd' og nam, sýngist: h e y r d i  o g  n a m.

— Þagnar-merki krefur litla vidstødu eda þegn vid sérhvert, sem fyrikémur í rædum, brúkast einkum í undrunar- edur harma-tølum milli orda, þá megn gledi, sorg, hrædsla, brædi edur þessháttar ofbod gjørir náttúrunni erfida edur óeginlega samanhángandi og vidstødulausa rædu, og skal þar, eptir efninu, allteins

í lestri, ræduna sundurslíta vid teiknin; þau brúkast og, þegar einhverr hættir ad tala í midri meiníngu, t. d.: eg vil þig vegsama, minn Gud! — þú Konúngur — og lofa þitt nafn um aldir og ad eilífu — daglega vil eg lofa og prísa þitt nafn æ og ad eilífu. — Æ! mig aumann! — eg hefi mist — allt — sem mér var kjærast í heiminum [illegible] ad —

(?) edur (???) edur og (!) ellegar (:::) sett þannig inní midjar klausur edur meiníngar, sýnir, ad verid sé ad skopast ad því, sem í nærstu ordum á undan edur klausu segist, og ad menn furdi sig magnlega yfir hví, edur spyrji ad ásergilega, hvert þetta sé mögulegt, eda í hverju þad sé falid? Til dæmis: í Tídindanna I. Bindis 1tu Deild, sem prentud var 1796, stendur bls. 120: „ad Georg Konúngur III. í Englandi hafi rádid af ad framhalda af mætti svo naudsynlegu og réttlátu (???) strídi." Þar vill teiknid þýda: hvernig kunni þad stríd ad álitast naudsynlegt ellegar réttlátt? þar var lángt frá. Í sömu bók er, bls. 136, med (!!!) skopast ad þeirri Keisara nád, sem úrskurdadi

midaldra mann til 60 ára kastala-fángelsis, en hlífdi honum fyrir ad sitja þar alla æfi.

---

Þessi adgreiníngar-teikn eru hin markverdustu, og öllum þeim naudsynleg ad þeckja og hafa í minni, sem einhverntíma vilja med skilníngi og skammlítid kunna ad lesa; því þó fljótt og vidstödulaust verdi þulid í þembíngi og graut áfram, er þad optast hræmuglegur lestur, á hvern úngmenni mega ecki venjast, heldur á ad lesa stillt, med skilníngi og eptirþánka, hæckandi og læckandi rómi og adgreiníngi í lestrinum, allt eptir efninu, vidlíkt og þá tveir talast vid venjulega, þegar bil-korn er þeirra á milli. Þetta hafa nú sidadar þjódir fyrir laungu þeckt ad vera því framar ómissandi ad kénna únglíngum, sem þeirra eginn og annara skilníngur og uppbyggíng af lestrum, er svo

mjeg undir gódu og greinilegu lestralagi kominn, en hverjutveggja eydir stórum, já, optlega gjøreydir óadgreint, eintóna Þembings Þvadur, sem — Því verr — endast hjá sumum vid hvert andartak, med svæfandi seymi og qvæda-ýlfri, hvad Þid, blessud Børnin! sem lærid nú ad stauta eptir Þessu Stafrofs qveri, kostgæfilega skulud fordast. Seinna munud Þid sjá og sanna, ad yckar framfør í bók-lestri og ødru gódu, skal verda yckar eginn og annara heidur og uppbygging, og yckar náúnga og vina føgnudur! *)

---

*) Framanskrifadar Støfunar- og Lestrar-reglur munu øllum almenningi nægja. Heldri manna børn ættu Þarámót ad kynna sér vel, Hra. Prófessor R..ks 1830 útkomna Lestrarqver, og réttrita-reglur, einkum Þau, er sett verda til menta.



Sá litli

Lúthers

# Katekismus.

## Þetta eru
## Tiu Laga-Bodord Guds.

### Fyrsta Bodord.

Eg er Drottiñ Gud þiñ, þú skalt ecki hafa annarlega Gudi fyrir mér.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum yfir alla hluti fram, Gud ad óttast, hann ad elska og á hann einn ad trúa.

### Annad Bodord.

Þú skalt ecki leggja nafn Drottins Guds þins vid hégóma, þvi Drottinn mun ecki halda þann saklausann, sem brúkar hans nafn hégómlega.

Hvad er það?

Það er: vér egum að óttast og elska Guð. Engum egum vér ílls að biðja í hans nafni, ecki sverja við það né fjölkíngi fremja, ecki ljúga né svíkja; heldur egum vér Guds nafn að ákalla í øllum vorum naudsynjum, það að tilbiðja, lofa það og því þackir gjøra.

## Þriðja Boðorð.

### Minnstú að helga hvíldardaginn Drottins Guds þíns.

Hvað er það?

Það er: vér egum að óttast og elska Guð. Að vér ecki fyrirlítum prédikunina né hans orð; heldur egum vér það heilagt að halda, gjarnan heyra það og læra.

## Fjórða Boðorð.

### Heidra skaltú føður þinn og móður, svo þér vel vegni og þú verdir lánglífur á jørdunni.

Hvað er það?

Það er: vér egum að óttast og elska Guð. Að vér ecki fyrirlítum vora foreldra, né þá, sem yfir oss eru boðnir, ecki þá til reiði reitum; heldur þá í heiðri hef-

um, þjónum þeim og og hlýdnir séum, elsk-
um þá og vyrdíng veitum.

## Fimta Bodord.

### Þú skalt ecki mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki meidum hold vors náúnga, eda gjörum honum mein í nockru; heldur egum vér honum ad bjarga og vidhjálpa í öllum hans lífs naudsynjum.

## Sjötta Bodord.

### Þú skalt ecki hórdóm drýgja.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér lifum hreinserduglega bædi í ordum og verkum, og ad hverr einn elski og í heidri hafi sína ekta-persónu.

## Sjöunda Bodord.

### Þú skalt ecki stela.

Hvad er þad?

Þad er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki grípum góz eda penínga vors náúnga, eda med fölskum kaupeyri eda undirhyggju undir oss drögum;

heldur egum vér honum ad hjálpa, svo hans góss og uppeldi ávaxtist og vardveitist.

## Attunda Bodord.

**Þú skalt ecki bera falskann vitnisburd á móti þínum náúnga.**

Hvad er það?

Það er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki ránglega ljúgum nockru á vorn náúnga, ecki svíkjum, baktölum eda ófrægjum hann í nockru; heldur egum vér hann ad afsaka, allt gott um hann ad tala og færa alla hluti til betra vegar.

## Níunda Bodord.

**Þú skalt ecki girnast hús náúnga þíns.**

Hvad er það.

Það er: vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki med slærd stundum eptir arfi edur fasteign vors náúnga, eda undir oss drögum med yfirvarpi laga og réttinda; heldur egum vér þar til ad hjálpa og styrkja, ad hann hafi sitt allt óskaddad.

## Tíunda Bodord.

**Þú skalt ecki girnast qvinnu náúnga þíns, ecki þjón né þjónustu-**

qvinnu, ecki uxa né asna og eckért þad hans er.

Hvad er þad?

Þad er: Vér egum ad óttast og elska Gud. Ad vér ecki burt-tælum eda lockum frá vorum náúnga hans egin-qvinnu, þjónustufólk eda qvikfé; heldur egum vér ad áminna og rádleggja, ad hverr og einn séfamt og ástundi ad þjóna, þad honum skyldugt er.

Hvad segir Gud um öll þessi Bodord?

Hann segir svo í 2 Mós. b. 20, 5. 6. Eg er Drottinn þinn Gud, eg er vandlátur Gud, sem læt straff fyrir fedranna ránglæti koma fram á börnunum í þridja og fjórda lid, þad er ad segja á þeim, sem mig hata; eg er líka sá, sem audsýni miskunsemi í þúsund lidu á þeim, sem mig elska og vid þá, sem vardveita mín bodord.

Hvad er þad?

Þad er: Gud hótar þeim öllum pínu, sem afvíkja þessum hans Bodordum; því egum vér ad óttast og hrædast hans straff, og eckért ad gjöra á móti hans Bodordum; en þeim öllum, sem þessi hans Bodord halda, lofar hann sinni nád, miskun

og øllum góðum hlutum; þar fyrir egum vér Gud ad elska, trúa honum og treysta og eptir hans Bodordum gjarnan ad gjøra.



# Trúar-játningin.

## FYRSTA GREIN.
## Um Skøpunina.

**Eg trúi á einn Gud, Fødur almáttugann, Skapara himins og jardar.**

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad Gud hafi skapad mig, ásamt øllum ødrum sképnum, og ad hann hafi géfid mér ønd og líkama, augu, eyru og alla limi, þar med skyn og skilníngar-vit, og ad hann øllu þessu enn þá vid makt heldur. Hér til veitir hann mér og fyrirsjer nóglega, og daglega géfur hann mér klædi og skjædi, mat og dryck, hús og heimili, fødur og módur, akur og qvikfé og allt þad, sem gott er, med øllu því eg medþarf til þessa lífs uppheldis. Hann verndar mig og vardveitir frá øllum skada

og háska og öllum íllum hlutum. Allt þetta gott veitir hann mér af sinni einskjærri, föðurlegri, guðlegri góðgirnd og miskun, án allrar minnar verðskuldunar. Fyrir hvað allt eg á honum þakkir að gjöra, honum þjóna og hlýðinn að vera. Þetta eru vissuleg sannindi!

## ÖNNUR GREIN.
## Um Endurlausnina.

Eg trúi á Jesúm Krist Son hans eingétinn Drottinn vorn, hverr eð gétinn var af heilögum Anda, fæddur af Maríu meyu, píndur undir Pontsíó Pílató, krossfestur, deyddur og grafinn; niðursté hann til helvítis, en á þriðja degi reis hann upp frá dauðum, uppsté hann til himna, situr nú til Guðs Föðurs almáttugs hægri handar, og þaðan mun hann koma að dæma lifendur og dauða.

Hvað er það?

Það er: eg trúi að Jesús Kristur sé sannur Guð, af Föðurnum gétinn fyrir

allar aldir, líka sannur madur, fæddur af Maríu meyu; ad hann sé minn Drottinn, sem mig glatadann og fyrirdæmdann mann hefir afrekad, endurleyst og frelsad frá öllum syndum, daudanum og djöfulsins valdi, ecki med gulli eda silfri, heldur med sínu heilaga, dýrmæta blódi og sinni saklausu pínu og dauda, svo ad eg sé hans eginleg eign, lifi undir hans valdi í hans ríki, honum þjóni í eilífu réttlæti, meinleysi og sáluhjálp, líka sem hann er sjálfur af daudanum upprisinn, lifir og ríkir ad eilífu. Þetta eru vissuleg sannindi!

---

## ÞRIDJA GREIN.
## Um Helgunina.

**Eg trúi á heilagann Anda og ad sé ein, heilog, almennileg, kristileg kirkja, sem er samneyti heilagra, fyrirgéfning syndanna, holdsins upprisa og — eptir þetta líf — eilíft líf.**

Hvad er þad?

Þad er: eg trúi ad eg géti ecki af sjálfs míns eginn krapti eda skilníngi trúad á Jesúm Krist minn Drottinn eda til hans komist; heldur hefir heilagur Andi mig,

með guðspjallanna kénníngu, kallað og upplýst með sínum ástgjöfum, helgað mig og viðhaldið í réttri trú; líka sem hann alla aðra kristna menn á jörðu, kallar, samansafnar, upplýsir, helgar og í réttri trú á Jesúm Krist varðveitir; í hverri kristilegri kirkju hann náðarsamlega fyrirgéfur mér og öllum trúuðum daglega allar syndir, og á efsta degi mun hann uppvekja mig og alla menn af dauða og géfa mér með öllum réttrúuðum, fyrir Jesúm Krist, eilíft líf og sáluhjálp. Þetta eru vissuleg sannindi!



# Drottinleg Bæn.

## Faðir vor, þú, sem ert á himnum!

Hvað er það?

Það er: Guð vill hér með tilleiða oss og locka að vér trúa skulum, að hann sé vor réttilegur Faðir og vér hans sannarleg börn, svo vér þess heldur með fullu trúnaðar trausti megum hann biðja, eins og góð börn biðja sinn elskulegann föður.

## Fyrsta Bæn.

### Helgist þitt nafn.

Hvað er það?

Það er: Guðs nafn er sannarlega í sjálfu-sér heilagt, þó vér biðjum ekki; en vér biðjum í þessari bæn, að það einnig helgist hér með oss.

Hvernig skéður það?

Þegar Guðs orð kénnist réttilega og hreinlega og vér eptir því lifum heilaglega, eins og Guðs börnum hæfir; þar til hjálpi oss vor elskulegi Faðir á himnum! en hverr, sem öðruvísi kénnir eða lifir, enn Guðs orð býður, sá vanhelgar Guðs nafn á meðal vor; þar frá varðveiti oss vor elskulegi himneski Faðir!

## Önnur Bæn.

### Tilkomi þitt ríki.

Hvað er það?

Það er: Guðs ríki kémur að sönnu án vorrar bænar af sjálfu sér til; en vér biðjum í þessari bæn, að það einnig komi til vor.

Hvernig skéður það?

Þegar Guð géfur oss sinn heilaga Anda, sá oss veitir þá náð, að vér trúum hans

heilaga ordi, lifum heilaglega, hér stundlega, en annars heims eilíflega.

## Þridja Bæn.

## Verdi þinn vilji, svo á jørdu, sem á himni.

Hvad er þad?

Þad er: Guds gódur og nádugur vilji verdur á himnum, þó vér bidjum ecki; en vér bidjum í þessari bæn, ad hans vilji verdi hér á medal vor.

Hernig skédur þad?

Þegar Gud ónýtir og hindrar øll íll ráð og vondann vilja þeirra, sem því valda, ad Guds nafn vanhelgast og hans ríki náir ecki til vor ad koma, sem eru: djøfullinn, heimurinn og vor holdlegur vilji; heldur styrkir hann oss og staduga gjørir í sínum ordum og í trúnni, allt til vorra æfiloka; þetta er hans miskunsamur og gódur vilji.

## Fjórda Bæn.

## Géf oss í dag vort daglegt braud.

Hvad er þad?

Þad er: Gud géfur ad sønnu daglegt braud, jafnvel vondum mønnum, þó vér

bidjum ecki, en vér bidjum í þessari bæn ad hann láti oss vort daglegt braud vidurkénna og med þacklæti til vor medtaka.

Hvad kallast daglegt braud?

Þad kallast allt þad, sem naudsynlegt er til þessa lífs bjargar, sem er: matur og dryckur, klædi og skjædi, hús og heimili, tødur og engjar, qvikfénadur, góß og peníngar, góð ekta-persóna, hlýdin børn, dyggt þjónustu-fólk, trúir og frómir yfirmenn, góð almúgans stjórn, hagstæd vedurátt, fridur, heilbrigdi, sidsemi, heidur, gódir vinir, trúfastir nágrannar og allt annad þessu líkt.

## Fimta Bæn.

### Fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum.

Hvad er þad?

Þad er: vér bidjum í þessari bæn, ad Fadir vor himneskur vilji ecki álíta vorar syndir, svo hann, fyri þeirra skuld, vilji ecki veita oss vora bæn — því vér erum allra þeirra hluta ómaklegir, sem vér hann umbidjum og hefum þad ecki verdskuldad — heldur ad hann vilji oss þad allt géfa af sinni egin-

legu náð; því daglega syndgum vér og verðskuldum ecki annað enn straff; svo viljum vér og einnig þarámóti fyrirgéfa af hjarta þeim, sem oss á móti brjóta, og gjøra þeim gott, sem við oss misgjøra.

## Sjøtta Bæn.

### Eigi leið þú oss í freistni.

Hvað er það?

Það er: Guð freistar að sønnu einkis manns; en vér biðjum í þessari bæn, að hann vilji vernda oss og varðveita, frá andskotans, heimsins og holdsins vélum, svo vér hrøpum ecki fyrir þeirra tilteygíngu í vantrú, ørvæntíngu eður aðrar stór-syndir og lesti; og þó vér freistumst af øllu þessu, þá láti hann oss um síðir yfirvinna og sigrinum halda.

## Sjøunda Bæn.

### Heldur frelsa oss frá íllu.

Hvað er það?

Það er: hér biðjum vér alls í einu í þessari bæn, að Faðir vor himneskur frelsi oss frá øllu íllu til lífs og sálar, farsældar og heiðurs; en að síðustu, þegar vor dauðastund er komin, géfi hann oss góð-

ann afgáng og taki oss miskunsamlega til sín úr þessum eymdadal inn í himnaríki.

## Amen.

Hvad er þad?

Þad er: ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar bænir séu vorum himneska Födur þacknæmilegar og af honum heyrdar; því hann hefir sjálfur skipad, ad vér skyldum med þessum hætti bidja og hefir lofad ad hannvilji oss bænheyra. Amen! Amen! Þad er: já, sannarlega, þad skal svo vera..

# Skírnar Sakramentid.

I. Hvad er Skírn?

Skírnin er ecki einsamalt vatn, heldur er hún þad vatn, sem saman er reirt og bundid med Guds bodordi og med Guds ordi samtengt.

2. Hvert er þad Guds ord?

Þad vor Herra Jesús Kristur sagdi hjá Matthæusi í 28da Kap.: Farid og gjörid allslags þjódir ad minum Lærisveinum og skírid þær til nafns Födurs og Sonar og heilags Anda.

3. Hvad útvegar Skírnin oss og veitir?

Hún útvegar oss og veitir fyrirgéfníngu syndanna, frelsar oss frá dauðanum og djeflinum og géfur þeim öllum eilífa sáluhjálp, sem trúa því, er Guðs orð og fyrirheit lofa.

4. Hver eru þau Guðs orð og fyrirheit.

Þau vor Herra Jesús Kristur segir hjá Markúsi í 16da Kap.: Hverr, sem trúir og verður skírður, sá mun hólpinn verða, en hverr, sem ecki trúir, sá mun fordæmast.

5. Hvernig fær vatnið verkað svo veglega hluti?

Vatnið má aldrei slíks orka, heldur veitir það Guðs orð — hvert að er í og með vatninu — og trúin, hver að slíkum Guðs orðum í vatninu trúir; því fyrir utan Guðs orð er vatnið einsamalt vatn en engin Skírn; en þegar Guðs orð samlagast vatninu, þá er það skírn. Það er náðarfullt lífsins vatn og endurgétníngar laug í heilögum Anda, eins og Páll Postuli segir í Sendibréfinu til Títusar í 3ja Kap.

Eptir sinni miskunsemi hefir Guð oss hólpna gjört, með endurgétníngar-lauginni og endurnýúnginni, sem skéður af heilögum Anda, hverjum hann hefir nóglega úthellt yfir oss fyrir

Jesúm Krist vorn Lausnara, svo vér, réttlætt-ir fyrir hans náð yrdum erfíngjar eilífs lífs eptir voninni. — Þessi ord eru sonn og trú-anleg. —

6. Hvad merkir þvílík vatnsskírn?

Hún merkir þad: ad sá hinn gamli Adam í oss, á daglega ad dreckjast og deydast fyrir ydrun og yfirbót, med ollum syndum og vondum girndum, og sídan daglega framkoma og upp aptur rísa nýr madur sá, er lifa skal í réttlæti og heilag-leika fyrir Gudi æfinlega.

7. Hvar steudur þad skrifad?

Páll Postuli segir í Sendibréfinu til Rómver-ja 6ta Kap.: Svo erum vér med Kristi greftr-adir í skírninni til daudans, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir dýrd Fodursins, svo egum vér ad gánga í nýu líferni.

---

# Altaris Sakramentid.

---

1. Hvad er Sakrament Altarisins?

Altaris Sakramentid er sannar-legt hold og blód Drottins vors Je-sú Krists, undir braudi og víni,

af sjálfum Jesú Kristi innsett, oss kristnum mønnum að eta og drecka.

2. Hvar stendur það skrifað?

Svo skrifa þeir heilögu Guðspjallamenn, Matthæus, Markús, Lúkas og Postulinn Páll:

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nóttu, sem hann svikinn var, tók hann brauðið, gjörði þackir og braut það, og gaf sínum Lærisveinum og sagði: takið og etið, það er minn líkami, sem fyrir yður verður géfinn. Gjörið það í mína minníngu.

Sømuleiðis eptir Qvøldmáltíðina, tók hann kaleikinn, gjörði þackir, gaf þeim hann og sagði: dreckið allir hér af, þetta er kaleikur ens Nýa Testamentis í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist til fyrirgéfníngar syndanna. Gjörið þetta — svo opt, sem þér það dreckið — í mína minníngu.

3. Hvað stoðar oss með þvílíkum hætti að eta og drecka hér af?

Það sýna mér þau orð, sem hér standa: **fyrir yður géfst og úthellist til fyrirgéfníngar syndanna;** því oss veitist fyrir þessi orð, í Sakramentinu synd-

anna fyrirgéfníng, eilíft líf og sáluhjálp, því hvar syndanna fyrirgéfníng er, þar er einnig lífið og sálhjálpin.

4. Hvernig fær líkamleg bergíng verkað svo mikla hluti?

Bergíng brauðs og víns verkar það í engann máta, heldur orðin, sem hér standa: **fyrir ydur gefst og úthellist til fyrirgefníngar syndanna;** hver orð að eru hjá líkhamlegri bergíngu svo sem höfuðstycki í þessu Sakramenti. Hverr, sem þessum orðum trúir, hann öðlast allt það, er þau innihalda og uppáhljóða, sem er syndanna fyrirgefníng.

5. Hverr neytir þessa Sakramentis maklega.

Að fasta og sig líkamlega þar til að búa, er að sönnu góð ytri siðsemi; en sá er sannarlega maklegur og velskickaður, sem trúir þessum Krists orðum: **fyrir ydur gefst og úthellist til fyrirgefníngar syndanna.** En hverr, sem ecki trúir þessum orðum og efar þau, hann er ómaklegur; því þetta orðið: **fyrir ydur,** krefur fullkomlegrar trúar í hjartanu.

## Signingin.

Í nafni Guds Fødurs, Guds Sonar og Guds heilags Anda.

## Drottinnleg Bæn.

Fadir vor, þú sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt riki. Verdi þinn vilji, svo á jørdu, sem á himni. Gef oss í dag vort daglegt braud. Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgefum vorum skuldu-nautum. Eigi leid þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu. Þvíad þitt er ríkid og máttúrinn og dýrdin ad eilífu. Amen.

## Blessunar Ordin.

Drottinn blessi mig og vardveiti mig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir mig og sé mér nádugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir mig og gefi mér frid!

## Bordsálmurinn fyrir máltíd.

Allra augu vona til þín, Drottinn! og þú géfur þeim þeirra fædu í hæfilegann tíma; þú uppljúkur þinni hendi og sedur allar lifandi sképnur med þinni blessun.

Dýrd sé Gudi Födur, Syni og heilögum Anda, svo sem hún var ad upphafi, er enn nú og vara mun ad eilífu. Amen!

Gud Fadir! miskuna þú oss!
Kristi Guds sonur! miskuna þú oss!
Gud heilagur Andi! miskuna þú oss!

Fadir vor! þú sem ert á himnum, etc.

Drottinn Gud, himneskur Fadir! blessa þú oss og þessar þínar gáfur, sem vér medtökum til vor af þinni miskunsamlegri gódgirni, fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn og Herra. Amen!

---

## Bordsálmurinn eptir máltíd.

Þackid þér Drottni, því hann er gódur, og hans miskunsemi varir

eilíflega! hverr ed øllu holdi gefur fædu, qvikfénadinum sitt fódur og úngum hrafnanna, sem hann ákalla. Hann hefir enga lyst á styrkleika hestsins, ecki heldur þóknun á fótleggjum mannsins. Drottni eru þeir allir þóknanlegir, sem ottast hann og til hans miskunar vona.

Dýrd sé Gudi Fødur, Syni, etc.
Gud Fadir! miskuna þú oss! etc.
Fadir vor, þú, sem ert á himnum, etc.

Packir gjørum vér þér, Drottinn Gud himneskur Fadir! fyrir Jesúm Krist voru Herra, og fyrir allar þína gáfur og velgjørnínga, þú, sem lifir og ríkir ad eilífu. Amen!

## Skrifta-málin.

Minn kjæri, verdugi Fadir í Kristi! eg bid Ydur ad heyra mína játníngu, uppørfa mína gudrækni, hugga mig med Guds ordi og boda mér synda qvittun í Jesú nafni.

Eg aum og syndug manneskja, játa almáttugum Gudi og øllum hans stórmerkjum, en afneita mínum og hans óvinum,

synd og öllu ógudlegu athæfi; líka medkénni eg fyrir Gudi og Ydur, minn kjæri Fadir! ad eg er sekur í óteljandi syndum í gégn mínum Gudi og Skapara; eg medkénni: ad eg hefi hans vilja og bodord brotid í þaunkum, ordum og verkum, en, þá sjaldan eg hefi rétt einlæglega viljad gjöra hid góda, hefir þó jafnan lodad vid mig þad hid vonda. Æ! þetta ángrar mig nú af hjarta, vil eg þvi feginn allra minna synda ydrast, þeim afláta og vidsjá, med réttri trú og trausti til Guds miskunar, fyrir Jesúm Krist minn Lausnara. Eg endurnýa nú alvarlega þad heit og loford fyrir Guds alskygna augliti og Ydur, ad láta mér daglega framfara í öllu gódu, og breyta eptir míns Frelsara dæmi, hvers pínu og dauda endurminníngu eg halda vil í dag; Gud virdist ad gefa mér sína nád þar til í Jesú nafni! Amen.

## Bæn fyrir Skriftir.

Rannsaka mig, ó Gud! og prófa mittt hjarta! géf mér ad þeckja, hvert eg hafi einlæglega elskad þig, og hvert eg hafi alvarlega látid mér vera umhugad um minn kristindóm.

Opna minn skilníng, svo eg læri rétt að þeckja sjálfañ mig, að eg ecki, mér til skaða, dragi sjálfañ mig á tálar í því, sem mest áríður í mínum sáluhjálpar efnum, né gjöri lítið úr syndunum, sem þú hatar. Minn Guð! eg vil nú, fyrir þínum alskygnu augum, ransaka mitt hjarta og mitt framferði; eg vil ecki fyrr neyta holds og blóðs míns Frelsara, heldur enn eg með vissu geti sagt; að eg sé hans sañarlegt barn, er framvegis vilji leitast við að hlýðnast og breyta eptir honum. Gef mér hér til aðstoð þíns góða anda, miñ Guð! Eg vil nú gánga fram fyri þinn þénara, og meðkeña þér og honum mínar syndir; æ! fyrir þér fæ eg ecki dulist; það mun fyrir þínum dómi á síðan opinbert verða öllum englum og mönnum, hvert eg er. Lát mig því, minn góði Guð! ecki svíkja sjálfann mig, heldur með hræsnislausu hjarta framkoma fyrir þig í dag og ætíð! Amen!

## Bæn eptir Skiftir.

Lofa þú Drottinn, sála mín! nú er eg þess vífs, að Guð hefir, fyrir míns Frelsara Jesú Krists skuld, fyrirgefið mér allar mínar syndir, þegar eg að eins efni þau elsku- og hlýðnis-heit, er eg nú vann mínum Skapara; eg hefi ecki annað verðskuldað enn straff, en Guð hefir auðsýnt mér náð; hans Sonur er dáinn á krossinum fyrir mig, svo eg mætti lifa. Nú vil eg framvegis, Guði og Frelsara mínum til þóknunar, sem svo mikið elskaði mig, hata allar syndir, og í öllu ástunda að hlýðnast hans boðum. Þessu hefi eg nú lofað þér, minn Guð og Frelsari! Lát mig aldrei í minni umgengni gleyma þessu loforði, þá verð eg verðugur borðgestur við míns Jesú qvöldmáltíð í dag, og fæ þá fullvissu um mína synda fyrirgefníngu, sem eg get huggað mig við í lífi og dauða. Amen!

## Bæn fyrir Bergingu.

Svo syndugur, svo óverdugur sem eg er, svo vill þó minn Frelsari unna mér þeirrar nádar, ad eg má nú framkoma ad hans há-bordi, til ad medtaka þar hans líkhama og blód, sem pant og fullvissu um minna synda fyrirgefníngu. AE! minn Gud! gef mér nád til ad kannast vid, hversu grunnlaus þessi elska er! Guds Sonur, sjálfur Fødursins ljómi, hryggist fyrir mínar syndir allt í daudann; Guds Sonur sveitir blódinu undir minni og alls heimsins synda sekt; Gu`s Sonur lætur sig fjotra, spotta, húdstrýkja, þyrnum krýna og á krossinu negla, til ad endurleysa mig, fallna manneskju; Guds Sonur leggur lífid út fyrir mig, sem sekur var eilífs dauda. O! hversu dýru verdi er eg keyptur! hversu øldúngis heyri eg, med øllum kroptum sálar og líkhama, mínum Frelsara til, sem svo heitt

hefir elskað mig! Með þessu hug-
arfari vil eg gánga til þinnar mál-
tíðar, minn guðdómlegi ástvinur!
þakklátur yfirvega þína ómetan-
legu elsku til mín, og uppörfa með
henni sjálfann mig, til að lifa þér
héðanaf. Styrk mig þar til, minn
Guð! með þínum Anda, í Jesú
nafni! Amen!

---

Bæn eptir Bergíngu.

Ó! hversu mikið á eg að þakka
þér, minn Frelsari! eg fæ ekki
með orðum útmálað stærð þinnar
elsku; eilíflega vil eg elska þig, því
þú hefir óútsegjanlega elskað mig.
Þér hefi eg að þakka fyrirgéfníngu
minna synda, Guðs náð, rósemi
samvitskunnar og eilíft líf. Lát
mig aldrei gleyma þessum dýrmætu
velgjörðum! Héðan af vil eg flýa
og forðast allar syndir, svo eg missi
ekki aptur þína náð. Mín æra,
mín unaðsemd, mín æðsta sæla sé

sú: ad elska þig, hlýda þér, fylgja þínu dygda dæmi og í øllum míns lífs athøfnum gjøra það, sem rétt er og þér vel þóknast. Gef mér þar til náð þína og adstod, svo megna eg allt fyrir þig. Amen!

## Morgun-Bæn.

Í þínu blessada nafni, ó Jesú! byrja eg nú þenna dag; minn fyrsti þánki og mín fyrsta ydja sé, ad lofa þig og þacka þér, minn Gud! er svo dásamlega hefir verndad mig í nótt frá øllu fári; þín nálægd umkríngdi mig, og þín forsjón vakti yfir mér á medan eg svaf og vissi eckért af mér, og nú hefir þú gefid mér lifandi og heilbrigdum ad sjá aptur dags-ljósid. Gódgjarni Fadir! þín miskun og trúfesti er og hefir verid ný og fersk yfir mér á hverjum morgni. Þín gædska gaf mér í fyrstu lífid, þín nád hefir híngad til vidhaldid því, gladt það

og endurnært med svo mørgum gædum; ó! hverninn kann eg verduglega ad þacka þér allt þad góda, sem þú óaflátanlega andsþnir mér óverdugri skèpnu þinni! æ! eg vil ástunda ad vera í dag og ætíd þitt gott og hlýdid barn; eg vil vanda mig og vera trúr í því, sem gott er og eg á ad gjøra; eg vil hafa þinn vilja og þín bodord mér fyrir lifnadar reglu; vidhaldtú hjá mér þessum góda ásetníngi! vaki hann í mínñi sálu vid hvert þad verk, er eg tek mér fyrir hendur í dag; stýri hann mínum ordum og athøfnum í allri mínñi umgengni, þá mun eg, fyrir þinn krapt, gódi Gud! fá stadist syndarinnar freistíngar, sem vond dæmi og mínar girndir kynnu ad búa mér í dag og eg ecki fyrisjé. Verndadu mig enn þá í dag, og hald þú mér stødugt vid þad eina, ad óttast þig og elska, þá er eg viss um þína velþoknun, þína vernd og adstod; þá

megna eg alla hluti fyrir hann, sem mig máttugann gjörir, Jesúm Krist minn Endurlausnara. Amen!

## Qvöld-Bæn.

Lofadur veri gódur Gud! sem hefir gefid mér lífs og heilum ad útenda þenna dag, undir síni gædskuríku vernd og varatekt! Hversu margt og mikid gott hefir þú nú audsýnt mér í dag, minn gædskuríki himneski Fadir! þú hefir ecki einúngis haldid mér vid lífid, heldur og þar á ofan svo fodurlega sjed mér fyrir lífsins naudþurftum, gefid mér föt og fædi, heilsu og heilbrigdi, verndad mig frá óteljandi meinsemdum og slisum, sem mig annars hefdu kunna ad henda, og gefid mér marga ánægju stund og mörg tækifæri til ad læra ad þeckja þinn vilja og breyta eptir honum mér til farsældar; þetta og óteljandi margt annad gott, er eg ecki

þecki, hefir þú veitt mér í dag; en hefi eg þá lifad þenna dag, sem þitt blódid barn, og látid ríkdóm þinnar gædsku vinna mig til ad verda því betri, sem eg lifi lengur, og eg bygg þína velgjörninga fleiri? æ! eg finn stórann brest hjá mér í þessu; mig ángrar nú, ad eg er svo mjøg undir syndina seldur; æ! fyrirgefdu mér þad samt, fyrir míns Lausnara Jesú forþénustu sakir, og virdstu enn þá í nótt ad taka mig undir þína vernd og gætslu; þér einum trúi eg fyrir mér á medan eg sef og veit eckért af mér; í þinni vernd hvíli eg øruggur; og ef þessi nótt skyldi verda mín sídasta, þá verdi þinn vilji, í þínar hendur fel eg minn anda. Amen!

---

Landferdamanns Bæn.

Gódi Gud! þú verndarinn allra þeirra, sem á þig treysta! í þínu nafni áforma eg nú mína

reisu; vertú mín fylgd og minn vegvísari, svo kann mig eckért íllt ad henda! Þér befala eg mig nú og mitt áform, Þú einn kañt ad farsæla mín fyritæki; vertú mér nú og jafnan nálægur med nád Þiñi, og vyrdstú ad greida hvert mitt spor mér til heilla. Afvend frá mér ollum slisum, hættum og ólucku tilfellum, og ber mig svo á Þínum hondum, ad eg steyti ecki fót miñ vid steini. Gef mér farsællega ad útrétta mín erindi í Þínum ótta og eptir Þínu bodi, mér og mínum medbrædrum til nota, og leid mig svo heilann og gladann heim aptur; Þá vil eg Þacklátur prísa Þína gædsku, sem aldrei yfirgefur Þá, er orugglr fela Þér sín efni, og í Jesú nafni setja á Þig einann sína trú og von. Amen!

## Sjóferdamanns Bæn.

Almáttugi Gud! Þú ert sá vísi og gódi hofudsképnanna Herra, og undir eins minn

Fadir! í traustí þinnar nádar-ríku handleidslu, byrja eg nú, veik og hjálpar þurfandi manneskja, þessa hættusömu sjóferd; þú þeckir best þær hættur, sem mér og voru litla skipi búnar eru, af óstødugu sjáfarins hafi, er afmálar mér daudans ímind á hverri øldu, sem rís umkríng þessi veiku skipsbord, er bera mitt líf; æ! vertú nú míns lífs verndari, minn leidtogi og minn besti ferunautur, því hverjum skyldi eg þora ad trúa fyrir mér, ef ecki þér, minn almáttugi Fadir og trúfasti lífgjafari! banna þú þínum sképnum, vindi og sjó, ad granda mínu og vor allra lífi, þá hlýda þær. Gef oss forsjállega ad geta sjed vid øllum fyrirsjáanlegum hættum af blindskérjum, bodum grynníngum og ødru, en afvend sjálfur þeim óþecktu. Uppljúk þinni mildu hendi, og send þú oss þínna blessun! bjód sjáfarins afgrunni, ad opna sitt ríka skaut, til ad uppfylla vorar naudþurftir. Þér befala eg mig med skipi og varnadi, leid þú oss alla farsællega, og vernda oss vid øllu tjóni, þá viljum vér lofa og prísa þína gædsku, sem svo dásamlega annast sín børn. En sé þad þinn nádugur vilji, ad þessi reisa skuli verda vor dauda-gángur, ó! svo gef mér og oss

øllum vel vidbúnum ad mæta voru sídasta. Í þínum höndum er vort líf, gjør þú vid oss eptir þinni velþóknun; vertú ad eins vor Fadir, og gef oss eilífa hvíld og sælu hjá þér, fyrir vors blessada medalgángara Jesú Krists forþénustu sakir. Amen!

---

## Bæn um gódann afgáng.

Miskunsami Gud og Fadir! þú einn ert Herra lífsins og daudans; mínir tímar standa í þinni hendi, þú hefir ákvardad minna daga tal, eptir vísdómi og gædsku hefir þú þad ákvardad; þar vid hughreystir sig minn andi, er eg þenki fram á mína óvissu endalykt; æ! þú einn veitst hvad marga edur fáa daga eg á nú eptir ólifada; gef mér því vareygdarsamar ad brúka og telja mína daga, því óvissari, sem eg er um þeirra tølu og þeirra endalykt; þetta veit eg, ad mér, eins og øllum mønnum er eitt sinn ásett ad deya, og þar eptir kémur dómurinn, æ! gef mér víslega ad búa mig þar undir nú strax í mínum heilbrigdu døgum, svo eg lært fái ad deya, ádur enn eg dey; gef mér opt og alvarlega ad þenkja um mína burtfør, grøfina dóminn og

eilífðina, svo mun dauðans umþenkíng aptra mér frá mörgum syndum, en gjöra mig ástundunarsamann í því, sem gott er, og efla mína sönnu farsæld; dauðans sífelda endurminníng mun gjöra mig athugasamari um sjálfann mig, vareygðarsamann í meðlæti, og vongóðann í mótlæti. Og þá mín dauða-stund loks aðkémur, svo gef mér, ó Jesú! í krapti þíns dauða, að yfirvinna allar dauðans ógnanir, svo eg mætti vel tilreiddur, með glaðri von og óskélfdri samvitsku, skilja við heim þenna með öllu því, er mér vænt um þykir í honum og innleiðast í þá sælu vist, sem þú, minn blessaði Lausnari og bróðir! hefir mér og öllum þínum trúuðum afrekað fyrir þinn dauða. Amen!



